# Kveðja Íslendínga

til

# Sjera Þorgjeírs Guðmundssonar,

**26. April 1839.**



KAUPMANNAHÖFN,
*prentað hjá Berlíngum.*

Nú er vetur úr bæ,
rann í sefgrænan sæ,
og sefur þar í djúpinu væra;
enn sumarið blítt
kjemur fagurt og frítt
meður fjørgjafar ljósinu skjæra.

Brunar kjøll ifir sund,
flígur fákur um grund,
kjemur fugl heím úr suðrinu heita.
Nú er vetur úr bæ,
rann í sefgrænan sæ,
nú er sumrinu føgnuð að veíta.

Verum røskjir í dag,
kveðum víkjinga-lag,
svo menn viti vjer ætlum að berjast;
herjum fløskurnar á,
og það fari sem má,
og þeir falli sem ná eí að verjast.

Verum glaðir í dag,
er í vinar vors hag
hefir verøldin maklega gjeingjið.
Senn er Glólundur grænn,
senn er Grashagi vænn,
þar mun gaman að reík'ifir eingjið.

Þó vjer skiljum um stund,
þá mun fagnaðarfund,
okkur fljótt bera aptur að høndum;
því að hjólið fer ótt,
því að fleiið er fljótt,
er oss flitur að Glólundar strøndum.

Þegar lauf skríðir bjørk,
þegar ljósgul um mørk
rennur lifandi kornstánga móða,
þá mun farið af stað,
þá mun þeíst heím í hlað
til hans Þorgjeírs í lundinum góða.

Þá mun sjón verða' að sjá
hvurnig hirðinum hjá
þar í haganum sauða þrífst fjøldinn;
þá mun riðið í lund
til að stitta sjer stund,
þá mun staupunum glamrað á kvøldin.

Farðu glaður af stað,
leiði gjæfan í hlað
þig á Glólundar hagsæla inni.
Vertu Þorgjeir vor sæll!
vertu vinur vor sæll!
þetta veri vort skjilnaðarminni.

Hafðu þøkk firir allt,
er þú vart oss ávallt!
nú mun vandhæfi slíkan að finna.
Veiti hamingjan þjer
það sem hugsum nú vjer,
góði hugljúfinn bræðranna þinna!

